Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

2. tölublað Þriðjudagurinn 10. janúar 7. árgangur Verð kr. 80.-



## Nýr listi í Dagsbrún?



Þegar þessi grein er skrifuð er starfið að mótun framboðslista til stjórnarkjörs í Verkamannafélaginu Dagsbrún í fullum gangi. Á sunnudaginn síðasta var haldinn opinn fundur þeirra Dagsbrúnarmanna er vildu styðja og móta framboðið gegn núverandi stjórn félagsins. Mættu þar 25 verkamenn frá ýmsum vinnustöðum.

Þau drög að grundvelli sem samin höfðu verið áður og dreift til umræðu meðal verkafólks, voru samþykkt með minniháttar breytingartillögum fundarmanna. Fundarmenn ákváðu að halda áfram undirbúningsstarfinu og því kusu þeir sér nefnd er tæki frekari ákvarðanir um framboðið. Í þessari viku kemur væntanlega í ljós hverjar þær ákvarðanir eru.

Allsherjaratkvæðagreiðsla ef um mótframboð verður að ræða, verður aðra hvora seinni helgar mánaðarins.

Því er mikilvægt að verkamenn tryggi sér að félagsskírteini þeirra séu í lagi. Fjölmargir yngri verkamenn sem borga fullt gjald til félagsins, hafa í raun lítil sem engin félagaréttindi vegna þess að þeir hafa ekki í höndunum félagsskírteini Dagsbrúnar, sem gerir þá að aðalfélögum. Úr þessu er auðvitað mjög mikilvægt að bæta og það er gert með því að fara upp á skrifstofu félagsins, skýra frá vinnustað, sækja um inngöngu og borga pappírsgjald skírteinisins. Það er til lítils fyrir verkamenn að borga fullt gjald til félagsins og hafa svo ekki atkvæðisrétt innan þess.

Kominn er tími til þess að verkamenn sýni nú hug sinn til svika og uppgjafastefnu þeirra manna sem stjórnað hafa verkamannafélaginu í áraraðir.
10. 1.´78

## Hver er afstaða KFÍ/ML til framboðs í Dagsbrún

Nú stendur yfir lokaundirbúningur verkamanna í Dagsbrún, er ætla að stilla upp lista gegn núverandi félagsstjórn. Grundvöllur þessa framboðs var saminn af verkafólki með mismunandi pólitísk afstöðu, sem þó hafa það sameiginlegt að vera á móti núverandi starfsháttum forráðamanna Dagsbrúnar. Félagar KFÍ/ML styðja heilshugar framtak verkamannanna, þrátt fyrir að ekki sé lögð fram stefnuskrá er kveður á um bar áttu gegn stéttasamvinnu og fyrir einingu verkalýðsins gegn auðvaldsskipulaginu. Stefnuskrá Dagsbrúnarverkamannanna hefur tvö megin einkenni, baráttustefnu sem miðar að aukningu lýðræðis innan félagsins og kröfur um að komið verði á átta stunda vinnudegi á lífvænlegum launum. Krafan um lýðræði þar sem verkamenn eru þátttakendur og gerendur baráttunnar er fyllilega í andstöðu við stéttasamvinnustefnu hinnar borgaralegu verkalýðsforystu er vill koma í veg fyrir að verkamenn hafi áhrif á gang mála, er þeir makka við atvinnurekendur. Þess vegna geta félagar KFÍ/ML tekið heils hugar undir lýðræðiskröfurnar, því að þær vega gegn stéttasamvinnustefnu verkalýðsforystunnar, þó að það sé ekki sagt berum orðum. Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku er sú krafa sem mikilvægust er í hagsmunabaráttu verkafólks í dag, enda hefur KFÍ/ML lengi barist fyrir henni innan verkalýðshreyfingarinnar. Það skal því engan undra er verkamenn með mismunandi pólitíska afstöðu setja kröfuna á oddinn sem sameinandi kröfu fyrir kjarabaráttu verkafólks.

Vissulega er stefna Kommúnistaflokksins að sameina verkalýðsstéttina til baráttu gegn auðvaldinu og handbendum þess innan verkalýðshreyfingarinnar með það að takmarki að gera byltingu er færir af sér sósíalískt þjóðfélag. En til að slíkt megi takast í rás tímans, verða að koma til margar stigbreytingar er færa fjöldann nær því að sjá fram á nauðsyn sósíalísks þjóðskipulags. Róm var ekki byggð á einum degi, og svo er einnig með starf kommúnista innan verkalýðshreyfingarinnar, að við náum ekki okkar markmiði um fram nema skref fyrir skref með þolinmóðu starfi meðal fjöldans. Flokkurinn styður baráttu verkamanna gegn uppkeyptri verkalýðsforystu, þrátt fyrir að þeir séu ekki fyllilega meðvitaðir um þjóðfélagslegt hlutverk verkalýðsaðalsins, er tryggir að fjöldinn sætti sig við auðvaldsskipulagið. Baráttumálefni Dagsbrúnarmanna er þeir hafa sett fram í 8 liðum er áður hafa birst í Stéttabaráttunni eru framfarasinnuð. Ef þau nást fram, eru fyrstu stóru skrefin stigin til að gera verkalýðsfélagið að baráttutæki verkafólks, er síðar mun stefna að því markmiði að framkvæma sósíalíska þjóðfélagsbyltingu, undir forystu kommúnistaflokksins.

## Indókína: Stríð í hvers þágu?

Nýlega bárust þær fréttir að Víet Namskt herlið hafi ráðist inn fyrir landamæri Kambodíu og myndað 800 km. víglínu. Enn fremur herma fréttir að tugir þúsunda hafa fallið af liði hvors um sig. Fyrir þá sem stutt hafa frelsisbaráttu, bæði Viet Nam og Kambodíu eru þessar fréttir mikið áfall. Enginn vafi leikur þó á að þessi átök eru meira eða minna tengd klofningnum í heimshreyfingu komúnista sem varð í kringum 1960. Innrás Víetnamama er gerð að undirlægi og fyrir þrýsting frá Rússum, sem ætla sér að ná Indókína undir sín yfirráð. Hin aukna stríðshætta sem fram hefur komið í kringum Sovétríkin er nú æ fleirum að verða augljós. Það hlutverk sem þeir leika nú í Víet Nam er enn ein sönnun þess. En fyrir þá sem ekki hafa sannfærst um eðli Sovétríkjanna munu þjóðir Indókína örugglega sann færa. Því fyrr eða síðar munu þessar þjóðir snúast gegn heimsvaldastefnu þeirra eins og Bandaríkjanna áður. Þjóðir Indókína hafa áður sannað að þær láta ekki nota sig fyrir heimsvaldasinnuð sjónarmið nokkurs risaveldis Þó að válega horfi í dag um framtíð þessara ríkja þá hefur hetjuleg frelsisbarátta alþýðu þessara ríkja sannað að þeim má treysta til að sigra hinn raunverulega óvin. Það er greinilegt að í dag hafa leiðtogar Víet Nam villst af réttri braut, með innrásinni inn í Kambodíu, en ný skilirði munu óhjákvæmilega leiðrétta það. USA heimsvaldastefnunni tókst um tíma að hafa undirtökin í Víet Nam, en ósigur þeirra var samt óhjákvæmileg ur. Sá sigur var óhjákvæmilega unninn á vígvellinum, vegna þess að þar var barátta milli svarinna óvinaherja. En baráttan nú verður leyst við samningarborðið, því nú eigast við alþýðuherir tveggja alþýðuvelda, sem í raun eru bandamenn gegn heimsvaldastefnunni.



Kambódískir frelsishermenn.

LEIÐARI

# Sovéska heimsvaldastefnan

Því er oft haldið fram að miklar ógnir steðji nú að heimsfriðnum sem stafi frá risaveldunum tveimur, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum. Það er staðreynd að þesi tvö risaveldi takast nú í auknum mæli á um drottnunarstöðu yfir öðrum ríkjum. Í auknum mæli eru það Sovétríkin sem nú beita hernaðarlegu ofbeldi til að treysta stöðu sína, bæði í Evrópu, Asíu og Afríku. Það er kunnara en frá þurfi að segja hvernig þau réðust inn í Tékkóslóvakíu til að brjóta á bak aftur sjálfstæðisviðleitni tékka. Í Afríku hafa þeir staðið á bak við hernaðaraðgerðir kúbana í Angóla til að efla sovésku ítökin og öðlast hernaðarlega stöðu í þessum heimshluta. Draumur þeirra er að treysta hernaðarlega stöðu Sovétríkjanna í öllum heimshlutum til að plægja jarðveginn fyrir efnahagslega drottnun. Sovétríkin eru í dag í villtri samkeppni við Bandaríkin um drottnunarstöðu í heiminum og í þeirri baráttu eru öll meðul leyfileg. Þau eru vaxandi heimsvaldasinnað stórveldi og frá þeim stafar mest stríðshætta í dag. Þau vígbúast af kappi til að vera tilbúin að færa stefnu sína út með hernaði um allan heim þegar hentugt tækifæri gefst. Í þessu sambandi er leyfilegt að bera þau saman við Þýskaland á þriðja áratugnum, sem steypti heiminum út í styrjöld til að ná drottnunarstöðu í heiminum. Nýjasta dæmið um vaxandi stríðshættu í kringum Sovétríkin eru atburðirnir í Indókína, en þar standa Sovétríkin að baki innrás Vietnama inn í Kambódíu. Kenningar þeirra um Indókínverskt samveldi eru nátengdar áætlunum þeirra um pólitísk og efnahagsleg ítök í Asíu. Það er öllum kunnugt að það er grunnt á því góða milli stjórnarinnar í Kambódíu og Rússlandi, vegna þess hvernig rússar studdu stjórn Lon Nols. En vegna sterkrar stöðu sinnar í Vietnam hefur þeim tekist að magna upp styrjöld milli þessara tveggja vinaþjóða. Fyrst og fremst í þeirri von að stríðið muni hræða stjórnina í Kambódíu til að vera liprari og eftirgefanlegri við rússnesku ítökin. Innrás vietnama er því fyrst og fremst til komin vegna afskipta rússa sem vilja ná yfirráðum í Indókína svipað og þeir hafa í austur-Evrópu. Sjónarmið þeirra eru augljós hverjum þeim sem fylgst hefur með aukinni útþenslustefnu í kringum Sovétríkin undanfarin ár. Allsstaðar þar sem þeir hafa náð fótfestu hafa þeir reynt að ná auknum áhrifum með öllum ráðum og ekki skirrst við að beita vopnum ef með hefur þurft. Þeir bera því fyrst og fremst ábyrgð á stríðinu í Kambódíu í dag og að alþýðuherir þessara tveggja ríkja berast nú á banaspjótum. Vaxandi ítök Sovétríkjanna í heiminum hafa hvarvetna leitt af sér rússnesk heimsvaldasjónarmið sem alþýðuhreyfingarnar um allan heim hljóta að fordæma. Baráttan gegn heimsvaldastefnunni er í dag órjúfanlega tengd baráttunni gegn útþenslustefnu Sovétríkjanna.

Hér á Íslandi hlýtur andheimsvaldasinnuð hreyfing því að snúast gegn báðum risaveldunum og ekki síður gegn stríðsógnunum kringum Rússland. Rússland er í dag ekkert sósíalískt ríki, en er í stað þess í villtri keppni við USA um heimsyfirráð fyrir rússneska kapítalismann. Vissulega hafa margar þjóðfrelsishreyfingar getað notfært sér þessa keppni milli risaveldanna og fengið stuðning rússa , en í lengdina séð stafar þeim ekki síður hætta frá rússum en USA. Ljósasta dæmið er kannski Vietnam og þeir atburðir sem þar eru að gerast í dag. Andheimsvaldasinnar verða því ekki síður að berjast gegn þeirri heimsvaldastefnu sem stafar frá rússum.

## Áskrifendur athugið!

RITNEFND HEFUR ÁKVEÐIÐ AÐ BREYTA ÁSKRIFTAVERÐI STÉTTABARÁTTUNNAR, FRÁ OG MEÐ ÁRAMÓTUM OG VERÐUR ÞAÐ ÞANNIG:

Lausasala kr 80.-

| | | |
|---|---|---|
| Heilt ár eða 48 tölublöð | Baráttuáskrift | kr. 5.500.- |
| " " " " " | Venjuleg áskrift | kr. 3.500.- |
| Hálft ár eða 24 tölublöð | " " | kr. 2.000.- |
| Erlendis, sent vikulega, 48 tbl. | | kr. 7.000.- |
| Erlendis sent hálfsmánaðarlega (2 blöð í einu) | | kr. 5.500.- |
| Til öryrkja og aldraðra, heilt ár | | kr. 500 .- |

Dufþakur

# Charlie Chaplin



"Herramaðurinn, skáldið og hugsuðurinn þráir alltaf rómantík."
(Úr sjálfsævisögu Chaplins)

Um jólin lést kvikmyndahöfundurinn og leikarinn Charles Chaplin. Fáirhafa haftjafn mikil áhrif á sögu kvikmyndagerðarinnar né notið jafn mikilla vinsælda meðal áhorfanda. Halldór Nóbelsskáld frá Laxnesi, ritaði grein um amerísku kvikmyndina fyrir 50árum og kemst þá m.a. svo að orði um snillinginn Chaplin:

"Fram til þessa dags er Charles Chaplin eini höfundurinn í ameríska kvikmyndaheiminum, sem grundvallar verk sín á lifandi þátttöku í kjörum afhraksins og ást á málstað lítilmagnans, en ekki hatri á skrílnum. Í öllum þroskaðri verkum hans er sama uppistaðan: sampíningin. Í brosi Charles Chaplins og gaungulagi birtist harmleikur hins útskúfaða frá upphafi veraldar; þar hefur hin tregafulla lífskend enn einu sinni holdgast í meistara." (Alþýðubókin bls.133)

Gamanið situr ávallt í fyrirrúmi í kvikmyndum Chaplins, en eigi að síður er undirtónninn alvarlegs eðlis og þrunginn ádeilu. Í Gullæðinu er uppistaðan fátækt og umkomuleysi þess, sem útskúfaður hefur verið frá samfélaginu; í Nútímanum firring verkamannsins í nútíma iðnaðarþjóðfélagi vegna tilgangslausrar og einhliða vinnu hans; í Einræðisherranum kúgun og harðstjórn einræðisríkisins. Chaplin gerir þannig málstað verkalýðsins að sínum, en þess má geta, að á síðari hluta þriðja áratugsins hlaut hann opinbera viðurkenningu af hálfu sovéskra stjórnvalda fyrir starf sitt í þágu öreigalistarinnar. Stjórnvöld í Bandaríkjunum verðlaunuðu hins vegar starf hans í þágu kvikmyndalistarinnar með því að flæma hann úr landi vegna pólitískra skoðanna, en það gerðist á tímum MacCartyismans.

Undanfarin ár hefur Hafnarbíó sýnt margar af þekktustu myndum Chaplins og í dag má þar sjá eina þeirra - Circus (Hringleikar). Mynd þessi er gerð árið 1928. Laxness kemst svo að orði í fyrrnefndri grein sem skrifuð er stuttu eftir frumsýningu myndarinnar:

"Eingan vafa tel ég á því að "Hringleikar" Chaplins, The Circus, séu hið merkasta listaverk sem birst hafi í Ameríku á þessu ári; a.m.k. er mér ekki kunnugt um neitt skáldverk af þessa árs prentuppskeru, sem standist þar samanburð. Hér talar djúpur sálrænn verulleiki úr hverju smáatriði. - Myndin er frá upphafi til enda óslitin röð af táknum. Um allar hugmyndir er fjallað af skilningi sem í innsta eðli sínu er kvikmyndalegur. Hin þjóðfélagslega vitund er alstaðar nálæg; - kanski hefur samúðarþúnginn aldrei verið sterkari með hinum lítilsvirta en í þessu síðasta verki snillíngsins né heiftin komið ljósara fram gegn "herrum hringleikanna". Mörg atriði úr þessum leik Chaplins, einsog líka ýmsum fyrri verkum hans, fylgja manni eftir og standa manni því ljósara fyrir hugskotssjónum sem lengra líður frá. Ég skal aðeins nefna hér lokasýninguna þar sem flakkarinn situr í tjaldstæðinu, yfirgefinn, útskúfaður eftir að hríngleikararnir með vagna sína eru eknir úr áfánga. Hann horfir dapurlega til jarðar og rjálar við sandinn með prikinu sínu. Loks stendur hann upp af kassanum þar sem hann sat, herðir upp hugann einu sinni enn, víngsar stafnum hissar upp buxurnar, - og vér sjáum á eftir honum hvar hann hverfur út á sléttuna. Fótaburðurinn, skóbragðið, príkið, jakkalöfin, hatturinn, stíllinn í baksvipnum og gaungulaginu - ég veit ekki hverskonar undarlegt sambland af Cervantes, Heine og Mark Twain, og þó einginn þeirra, heldur Charles Chaplin einn." (Alþýðubókin, bls.134)

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud.15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

## Af fjölmiðlum

BARBAROSSA-ÁÆTLUNIN.

Nýlega sýndi sjónvarpið breska heimildarmynd um Barbarossa - áætlunina, en svo nefndist áætlun Þjóðverja um innrás í Sovétríkin árið 1942.

Það er útbreidd söguskoðun að innrás Þjóðverja í Sovétríkin, hafi komið ráðamönnum þar austur frá algjörlega á óvart og er þessi skoðun ríkjandi í myndinni. Kætast sumir yfir því í leiðinni að þarna hafi nú ærlega tekist að plata skúrkinn Stalín. Samt skýrir myndin frá því að sovéskir og aðrir njósnarar, hafi margsinnis greint frá fyrirætlunum Þjóðverja og jafnvel nokkurn veginn hvenær þeir myndu láta til skarar skríða og þó halda menn því fram að Stalín hafi setið klumsa eins og þorskur frammi fyrir öllu saman.

Eins og sýndi sig í stríðinu við Finna, var sovéski herinn mjög illa búinn og alls ekki reiðubúinn að mæta öflugasta her í heimi. Það reið því á miklu að þjálfa herinn skjótt, byggja upp hergagnaiðnaðinn og fresta sem lengst átökunum

framhald á síðu 3

# Hin tíu megintengsl

## *eftir Mao Tse-tung*

"Hin tíu megin tengsl" flutti félagi Maó Tse-tung upphaflega sem ræðu á fundi pólitískrar framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína 25. apríl 1956.

Með því að birta ræðuna sem greinaflokk vill Stéttabaráttan gefa lesendum sínum tækifæri til að kynnast nánar þessum mikla leiðtoga kínversku þjóðarinnar

Hér dregur Maó Tse-tung saman reynslu Kínverja sjálfra sem og einnig reynsluna af Sovétríkjunum í sósíalískri byltingu og sósíalískri uppbyggingu. Á meistaralegan hátt dregur hann þetta saman í "tíu megin tengsl" og setur fram hugmyndir sem eru undirstaðan í stefnu sem lögð er til grundvallar í að byggja sósíalismann með stórstígari, hraðari, betri og meiri efnahagslegum árangri, stefna sem fellur að aðstæðum í Kína.

Stéttabaráttan er einnig sannfærð um að lesendur blaðsins geti marga lærdóma dregið af lestri þessa greinaflokks til brúks í eigin starfi að íslensku byltingunni.



Mao Tse-tung.

VIII.

### TENGSLIN MILLI BYLTINGAR OG GAGNBYLTINGAR.

Hvers konar afl eru gagnbyltingarsinnar? Þeir eru neikvætt afl, eyðandi afl, andstæða jálvæðra afla. Geta gagnbyltingarsinnar breyst? Þeir harðsvíruðustu munu án alls efa aldrei breytast. Við réttar aðstæður í landi okkar munu samt flestir gagnbyltingarsinnanna kannski breytast að meira eða minna leyti. Sakir þeirrar réttu stefnu sem við höfum tekið, hafa margir breyst í einstaklinga sem ekki eru lengur andstæðir byltingunni og örfáir hafa jafnvel látið gott af sér leiða.

Eftirfarandi atriði þarf að staðfesta:

Í fyrsta lagi ætti að staðfesta að árin 1951-52 hafi verið nauðsynlegt að bæla niður gagnbyltingarsinna. Sú skoðun er til, að þessi herferð hafi verið ónauðsynleg. Það er ekki rétt.

Gagnbyltingarsinna á að meðhöndla á eftirfarandi hátt: aftaka, fangelsi, eftirlit og afskiptaleysi. Allir vita hvað aftaka merkir. Með fangelsun er átt við að gagnbyltingarsinnarnir verði settir í fangelsi og þeir betraðir með vinnu. Með eftirliti er átt við að þeir séu látnir ganga lausir en hafðir undir eftirliti fjöldans til að betra þá. Með afskiptaleysi er átt við að yfirleitt eru engar handtökur framkvæmdar, þar sem vafi leikur á hvort gera skuli slíkt eða fanga hefur verið sleppt vegna góðrar hegðunar. Það er afgerandi að mismunandi gagnbyltingarsinnar fái mismunandi meðhöndlun, allt eftir eðli sérhvers máls.

Lítum nú nánar á aftökuna. Rétt er að við tókum nokkra af lífi meðan áðurnefnd herferð til að bæla niður gagnbyltingarsinna stóð yfir. En hvers konar fólk var þetta? Þetta voru gagnbyltingarsinnar sem stóðu í blóðskuld við fjöldann og hann hataði biturlega. Í mikilli byltingu sem nær til 600 milljóna manna, myndi fjöldanum ekki takast að rísa upp ef héraðsstjórar eins og "harðstjórinn í austri" og "harðstjórinn í vestri" væru ekki drepnir. Ef þessi herferð hefði ekki verið farin, hefði alþýðan ekki samþykkt eftirgjafastefnu okkar. Nú þegar sumir hafa frétt að Stalín hafi óréttilega látið taka nokkra menn af lífi, draga þeir í fljótfærni þá ályktun, að það hafi líka verið rangt af okkur að taka hóp gagnbyltingarsinna af lífi. Nei, slíkt er ekki rétt. Það er gífurlega þýðingarmikið að nú verði staðfest að það hafi verið fullkomlega rétt að taka þessa gagnbyltingarsinna af.

Í öðru lagi ætti að staðfesta að gagnbyltingarsinnar eru enn fyrir hendi, þótt þeim hafi fækkað mikið. Það varð nauðsynlegt að hreinsa út gagnbyltingarsinna eftir að flett var ofan af máli Hu Fengs. Við verðum að halda áfram að afhjúpa þá sem eru enn í felum. Það ætti að staðfesta að enn séu til örfáir gagnbyltingarsinnar sem vinna gagnbyltingasinnuð skemmdaverk af ýmsu tagi. Þeir drepa nautgripi, brenna korn, herja á verksmiðjur, stela upplýsingum og koma á fót gagnbyltingarmiðstöðvum, svo dæmi séu nefnd. Þar af leiðir að rangt er að halda því fram að gagnbyltingarsinnar hafi fullkomlega verið afmáðir og að við getum þess vegna lagst á vort græna eyra og sofnað. Við ættum aldrei að slaka á árvekni okkar, svo lengi sem stéttabarátta er til í Kína og heiminum. Eigi að síður væri það rangt að halda því fram að mikill fjöldi gagnbyltingarsinna væri til staðar.

Í þriðja lagi ætti framvegis að framkvæma færri handtökur og aftökur er við bælum niður gagnbyltingarsinna í þjóðfélaginu sem heild. Þeir eru svarnir og beinir féndur alþýðunnar og djúpt hataðir af henni og því ætti að taka lítinn hluta þeirra af lífi. En flesta þeirra ætti að afhenda samyrkjubúunum og láta þá starfa að landbúnaði undir eftirliti og betra þá þannig með vinnu. Hvað sem því líður, getum við ekki lýst því yfir að ekki verði fleiri aftökur og við getum ekki afnumið dauðarefsinguna.

Í fjórða lagi þegar verið er að hreinsa út gagnbyltingarsinna úr stjórntækjum flokksins og ríkisstjórnarinnar, verðum við að halda fast við stefnuna sem mörkuð var í Yenan, að "drepa engan og handtaka fáa". Þá gagnbyltingarsinna sem hafa játað, eiga viðkomandi samtök að taka fyrir, og öryggisnefndir alþýðunnar eiga ekki að framkvæma neinar handtökur, eftirlitsnefndirnar eiga ekki að hefja neina málsókn, né heldur skulu dómstólar draga neinn fyrir rétt. Rúmlega 90 af hverjum hundrað gagnbyltingarsinna eiga að fá þessa meðferð. Það er þetta sem við eigum við, þegar talað er um að "handtaka fáa". Hvað aftökur varðar, drepið engan.

Hvers konar fólk tökum við ekki af lífi? Við tökum fólk eins og Hu Feng, Pan Hannien, Jao Shu-shih og jafnvel fangna stríðsglæpamenn eins og keisarann Pu Yi og Kang Tse, ekki af lífi. Við tökum þá ekki af lífi vegna þess að þeir eigi ekki hámarksrefsingu skilið, heldur vegna þess að slíkar aftökur hafa engan ágóða í för með sér. Verði einn slíkur glæpamaður tekinn af, munu annar og sá þriðji verða bornir saman við hann og glæpi hans og þá munu mörg höfuð fjúka. Þetta er fyrir það fyrsta. Í öðru lagi er hugsanlegt að fólk verði tekið af lífi ranglega. Sagan hefur sýnt að ekki er hægt að setja aftur á höfuðið sem skilið var frá búknum, né heldur sprettur það aftur eins og laukarnir, þegar það hefur verið skorið af. Hafirðu skorið höfuðið af einhverjum af vangá, er enginn vegur að leiðrétta það, hversu mjög sem þú reynir það. Í þriðja lagi væri búið að byrgja brunn sönnunargagna. Sönnunargögn eru nauðsynleg til þess að bæla gagnbyltingarsinna niður. Oft er einn gagnbyltingarsinni lifandi vitnisburður gegn öðrum og þess eru dæmi að ágætt sé að ráðfæra sig við hann. Ef búið er að losa sig við hann, er hugsanlegt að sönnunargögn skorti. Það yrði gagnbyltingunni en ekki byltingunni að gagni. Í þriðja lagi er það staðreynd að líflát gagnbyltingarsinna verður ekki til þess að 1. auka framleiðsluna, 2. hækka vísindalegt þróunarstig landsins, 3. aðstoða við að eyða "plágunum fjórum", 4. styrkja þjóðvarnir, eða 5. auka möguleika okkar á að endurheimta Taiwan. Það mun aðeins afla þér frægðar fyrir að drepa fanga, og það hefur ævinlega þótt ill frægð. Annað er það, að gagnbyltingarsinnar í stjórntækjum flokksins og ríkisvaldsins eru frábrugðnir gagnbyltingarsinnum úti í þjóðfélaginu. Hinir síðarnefndu beita fjöldann kúgun, hinir fyrrnefndu eru dálítið fjarlægir fjöldanum og eru því óvinir almennt séð en sjaldnast beinir óvinir. Hvaða ógagn er gert með því að láta þá lifa? Þá sem hafa líkamlega heilsu ætti að betra með vinnu hinum sem hafa það ekki þarf að sjá fyrir. Gagnbyltingarsinnar eru einskisnýtir, þeir eru meindýr, en ef þú hefur tangarhald á þeim getur þú látið þá gera alþýðunni eitthvert gagn.

En eigum við að setja lög um það að enginn gagnbyltingarsinni í stjórntækjum flokks eða ríkisvalds verði líflátnir? Stefna okkar felst í innra eftirliti, sem þarf ekki að koma fyrir almenninsssjónir. Allt sem gera þarf er að framfylgja henni eins ítarlega og hægt er í starfi. Setjum sem svo, að einhver kasti sprengju inn í þessa byggingu og drepi alla hér, eða helming eða þriðjung sem hér eru. Mynduð þið álíta að hann skyldi líflátinn eða ekki? Auðvitað verður að taka hann af lífi.

Þó að við fylgjum stefnunni að lífláta engann þegar verið er að hreinsa burt gagnbyltingarsinna í stjórntækjum flokksins og ríkisvaldsins, merkir það engan vegin að við getum ekki beitt þá hörku. Það er vörn gegn óbætanlegum mistökum og ef mistök eru gerð, veitir það okkur tækifæri til að leiðrétta þau. Þannig mun fargi verða létt af mörgum og komið í veg fyrir tortryggni meðal flokksfélaga. Ef gagnbyltingarsinnar eru ekki líflátnir, verður að sjá fyrir þeim. Öllum gagnbyltingarsinnum verður að veita tækifæri til þess að sjá sér farborða, svo þeir geti byrjað nýtt líf.

Þetta mun verða alþýðunni til hagsbóta og því mun vel tekið erlendis.

Það er samt sem áður mikið sem vinna þarf til að bæla niður gagnbyltingarsinna. Við megum ekki slaka á. Framvegis verður ekki aðeins að halda áfram að bæla niður gagnbyltingarsinna, við verðum líka að afhjúpa leynda gagnbyltingarsinna í stjórntækjum flokks og ríkis, skólum og herdeildum. Við verðum að draga skýrar markalínur milli okkar og óvinarins. Verði óvininum leyft að hreiðra um sig í röðum vorum og jafnvel í leiðandi einingum, gerum við okkur fyllilega ljóst hversu alvarleg ógnun það mun verða gagnvart málstað sósíalismans og alræði öreiganna.



## Af fjölmiðlum

framhald af síðu 2

við Þjóðverja. Eftir að Sovétmenn höfðu árangurslaust fram á síðustu stundu, reynt að ná bandalagi við Breta og Frakka, var gripið til þess snjallræðis að gera friðarsamning við Þjóðverja. Það má jafnvel ganga svo langt að segja að þessi friðarsamningur hafi verið upphafið að ósigri nasismans. Eftir að hafa gert friðarsamning við Þjóðverja, fóru Sovétmenn að huga að óvininum sem reyndi að troða sér inn bakdyramegin og sópuðu Japönum út úr Mansjúríu.

Í bresku myndinni er sýnt er Þjóðverjar taka fyrstu brýrnar heilar, en sú dýrð stóð ekki lengi. Eftir því sem þýski herinn sótti lengra inn í landið voru ekki aðeins brýrnar ónýtar, heldur höfðu jafnvel virkjanir og vatnsveitur verið eyðilögð, búfé verið slátrað, akrar brenndir og kornhlöður einnig, verksmiðjur stóðu tómar og vélarnar höfðu verið fluttar austur yfir Úralfjöll. Nú fór að verða þröngt um aðdrætti enda hafði þýski herinn vaðið yfir gífurlegt landflæmi og byrgðar þurfti að flytja um langan veg.

Sovéski herinn hafði ekki afl til að ráða við þann þýska strax við landamærin. Því beittu þeir þeirri hernaðaraðferð sem löngum hefur gefist vel, að draga óvinaherinn langt fram, króa hann þar af og lúskra rækilega á honum. Sovétmenn ákváðu að stöðva þýska herinn í Rússlandi að vetrinum og það gerðu þeir við borgirnar Leníngrad, Moskva og Stalíngrad og þar sneru þeir þýska hernum við og hröktu hann vestur fyrir Berlín.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
2. tbl. 16.1.1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Dómskerfið þjónar borgarastéttinni

Allri alþýðu manna er æ betur að verða ljóst, að ekki eru allir jafnir fyrir lögum þessa lands. Áhrifamenn í valdastofnunum auðstéttarinnar er gerast sekir um milljóna eða tugmilljóna þjófnaði, er hlíft við réttarhöldum. Það á að vísu ekki við um þá alla, en ef einhver stórþjófurinn er dæmdur, eru allar líkur á að hann þurfi ekki að afplána tilskylda fangelsisvist. Stórþjófar úr borgarastétt eru venjulegast dæmdir í 4 til 6 ára fangavist auk þess sem þeim er gert að greiða aftur þá peninga er þeir hafa stolið. Eftir dómsuppkvaðningu er þeim ekki stungið inn og er því borið við, að ekki sé pláss, enda fangelsi landsins yfirfull af smáafbrotamönnum með meiru. Þeir fá þá tækifæri á að selja eitthvað að eigum sínum, til að borga til baka þær fjárupphæðir er stolið var Innan tveggja ára, en það er sá biðtími sem stórþjófar hafa eftir fangavist, beita þeir öllum samböndum sínum innan valdakerfis borgarastéttarinnar til að fá yfirvofandi fangavist afstýrt. Talað er við vini í "flokknum" og sóknarpresturinn gefur vottorð um að viðkomandi hafi tekið upp gott og heiðarlegt líferni. Á endanum kemur svo náðun frá dómsmálaráðuneytinu. Dæmin þessu til stuðnings eru mýmörg og er óþarfi að tína til einhver sérstök, því mennirnir sem slíkir skifta ekki meginmáli, heldur sú staðreynd að dómskerfið þjónar auðstéttinni. Ef þú ert ríkur eða í góðri stöðu og ástundar fjársvik eða þjófnað tekur þú ekki mikla áhættu nema er vera skyldi þá að missa mannorðið.

En hvað með þá dóma er alþýða manna fær? Ef þú ert t.d. tekinn fyrir ölvun við akstur færðu sem svarar mánaðarlaunum þínum í vægustu sektir. Ef þú borgar ekki á tilskyldum tíma, ert þú leitaður uppi af lögreglunni á vinnustað eða heimili. Ef þú borgar ekki á stundinni, er þér stungið fyrirvaralaust inn. Dómskerfinu og lögreglunni er óspart beitt gegn þeim er drýgja smáafbrot, enda eru fangelsin yfirfull af fólki er þau fremur. Ríkisvald, dómstólar og lögregla er við búum við þjónar ríkjandi stétt þ.e. borgarastéttinni og er ætlað það hlutverk að halda auðvaldsskipulagi í skorðum. Um réttlátt dómskerfi verður ekki að ræða fyrr en vinnandi fólk hefur brotið niður ríkisvald og arðránskerfi auðmannastéttarinnar og byggt upp þess í stað þjóðskipulag sósíalismans þar sem ríkisvaldið er undir leiðsögn verkalýðsstéttarinnar. Það er sú eina aðferð sem dugir til að tryggja að réttlætið þjóni yfirgnæfandi hluta þjóðfélagsþegnanna, er hin fámenna borgarastétt kúgar í dag.



Krónan er þung á vogarskálum réttvísinnar.

# Stéttabaráttan

Nú er árið liðið. Markinu í lausasölunni hefur verið náð, en áskriftaherferðin er all mikið á eftir áætlun. Eins og sagt hefur verið frá, hafa nokkrir menn verið með prufuáskrift fram að áramótum.
Ekki reyndist unnt, eins og lofað var að klára að hafa samband við þá alla og verður það því að frestast um eitt blað, að birta niðurstöðu.

Fastir áskrifendur gera fjárhag mun öruggari. Með bættum tækjakosti mun útlit blaðsins batna verulega. Ritnefnd hefur ráðgert að fjölga síðum blaðsins skipulega, til að hafa fjölbreyttara efni og seinna meir mun útgáfutíðnin aukast.




Hamarinn synir aukningu lausasölunnar frá upphafi herferðarinnr, 1 september s.l. Sigðin telur aukningu áskrifenda á sama tímabili.

Nýjar áskriftir skal póstsenda til : Rauðu Stjörnunnar Lindargötu 15, Pósthólf 1357. S: 27810.

# Bréf til Dufþaks

Kæri Dufþakur.

Áður en ég sný mér að efninu ætla ég að þakka þér fyrir síðast og vona að þú sért við bestu heilsu. Þetta bréf sendi ég þér vegna greinarkorns þess sem þú skrifar í 1. tbl. Stéttabaráttunnar 1978 og nefnir Árangurinn af starfi Kommúnistaflokksins. Þar ferð þú nokkrum orðum um greinarkorn mitt frá 45.-46. tbl. 1977 er ég nefndi Hví er Kommúnistaflokkurinn byltingarsinnaður. Eftir minni bestu vitund ert þú Dufþakur málefnalega sammála grein minni en ósammála að mér skilst að greinin sé birt í Stéttabaráttunni.

Fyrri ofangreinda forsendu gef ég mér vegna þess að ég veit að þú ert kommúnisti og eins vegna þess að þó grein þín sé gagnrýnin, reyndir þú ekki að hrekja stakt orð í minni.

Seinni forsendan er tilkomin vegna þess að þú gefur í skyn að greinin "Hví er Kommúnistaflokkurinn byltingarsinnaður" (og fjallar að mestu um díalektíska og sögulega efnishyggju) sé óskiljanleg öllum nema kommúnistum. Fyrirsögn greinarinnar sé því jafnvel enn torleystari spurning fyrir almennan lesanda en hún var áður.

Alþýðubandalagsins!! Sem sagt ég átti að taka fyrir í einni grein nær öll verkefni fréttablaðs kommúnistaflokks við núverandi aðstæður hérlendis.

Af öllu þessu dreg ég svo þá ályktun að gagnrýni þín sé ekki uppbyggjandi og alls ekki málefnaleg eins og hún hefði þurft að vera þegar tekin eru fyrir jafn mikilvæg mál

Hvers vegna velja menn eitt verkefni en ekki önnur? Slíkt hlýtur að vera matsatriði hvers og eins hverju sinni.

Það sem fyrir mér vakti var að hefja máls á því atriði sem svo mörgum er erfitt að skilja og við kommúnistarnir munum sjálfsagt ekki skilja til fulls fyrr en við höfum reynt það. En það er sjálf byltingin og hvers vegna við kommúnistarnir látum okkur ekki nægja að vera "bara róttækir".

Svör við spurningunni "af hverju bylting" verða aldrei gefin nema kafað sé gaumgæfilega niður í það hvernig efnin þróast og út frá því hvernig þjóðfélagsbreytingarnar eiga sér stað samkvæmt breytingum í framleiðslunni. Með

sem baráttan snýst um þó svo eðlismunur sé á því hugarfari sem verkafólk hefur þegar það leggur út í baráttuna eða því hugarfari sem einkennir borgarastéttina. Annars vegar er baráttan fyrir því að fólk fái notið sinnar vinnu en hins vegar baráttan fyrir síauknum gróða.

Hinar mismunandi mikilvægu breytingar og hreyfingar sem verða í þjóðfélaginu leiða til eðlisbreytingar (byltingar) á því, og sú breyting á sér stað með miklum hraða og fyrir innri átök. Þannig er eðli efnisins t.d. þegar vatn er hitað verða á því hægfara hitastigsbreytingar en þegar hitunin nær vissu marki verður á því eðlisbreyting og það breytist í gufu.

Eins og ég sagði í grein minni "Hví er Kommúnistaflokkurinn byltingarsinnaður" þá er ekki hægt að svara því á nokkurn hátt fullnægjandi í einni blaðagrein. Ég hef því notað tækifærið og reynt að leggja lítillega meira af mörkum. Því ekki dugir okkur Dufþakur að koma með stórar fyrirsagnir og gera þeim síðan aðeins lítillega skil, en



Frá fundi Baráttueiningar í Háskólabíói 1. maí 1976.

Úr þeim vandamálum sem þú telur að greinin mín hafi valdið, reynir þú svo á engan hátt að leysa. Heldur bendir á enn fleiri mál sem heldur hefði átt að taka fyrir.

Stóryrtar yfirlýsingar um "fall í gryfju fræðilegra vangaveltna" eru engum til gagns.

Í lok gagnrýni þinnar hneykslast þú svo yfir "ósvífni minni að endurprenta nokkrar setningar úr grein Stalíns um díalektíska og sögulega efnishyggju, án þess að geta heimilda - rétt eins og ég vilji eigna mér þau skrif sjálfur. En ég fæ bara hvergi séð það á greininni "Hví er Kommúnistaflokkurinn byltingarsinnaður" að hún sé eignuð einum né neinum - hvorki mér né Stalín.

Þeir sem vita hver skrifaði hana vita líka full vel hvaðan sá kafli er ég nefndi "Díalektíkin í örstuttu máli" er komin.

Eins vitum við það báðir að margt ágætt fólk setur tappa í eyrun þegar minnst er á Stalín

Á einum stað í grein þinni segir þú "að nær hefði verið að taka til meðferðar einstaka þætti borgaralegs þjóðfélags, s.s. lýðræðið, ríkisvaldið, eignarhaldið á framleiðslutækjunum og bera saman byltingarsinnaða afstöðu Kommúnistaflokksins og umbótapólitík

því að skoða hlutina þannig, komumst við að raun um að í mannfélaginu frá forneskju hafa átt sér stað fyrst hægfara breytingar sem virðast smávægilegar t.d. tæknilegar breytingar í sambandi við atvinnugrein (fundinn upp hamar, bogi, bátur, bíll, nýtt framleiðslutæki), sem síðan leiða til breytinga á afstöðu stéttanna til framleiðsluafurða þjóðfélagsins. Því að sjálfsögðu eru það þessar afurðir

það virðist okkur báðum vera tamt samanber tvær nefndar greinar.

Ég vona nú að ef þú skrifar aftur um þessi mál að þú látir það fylgja með í skrifum þínum sem þér finnst vanta og færir til betri vegar það sem miður er.

Vertu nú heill og sæll að sinni og eins og Dave Allen segir þá megi Guð þinn vera með þér.

"Ingólfur Arnarson"

